# Saknadarstef

Danmerkur vid burtför

Assessors *B. Torsteinssonar*

súngit

í samsæti Islendinga

þann 24da Apr. 1821.

Kaupmannahöfn.
Prentad hiá Þorsteini E. Rangel.

Lagid: Eldgamla Isafold etc.

Örlögin hardlyndu
er giörla hér syndu
Almætti sitt
braut hafa' ört búid
burt huga giör snúid
brottferdar til knúid
eitt yndælid mitt.

Hvör féck í hug sér leidt
ad hér feingi frá mér seidt
hnoss aldin mær
skraut hverrar þrátt skérdir
skakvindi' og eldmergdir
hvar frostid þraut herdir
og orgar sær.

Ei tiáir letia þann
ástin svo hvetia vann
födurlands blíd,
eg vard þess fyrri vör
valin þó bydist kiör
öll lutu' hans þángad svör
sem fóstran bió þíd.

Med miallhvítan faldin þú
mær bú þig aldin nú
mög taka mót
fadm breid út fagran þinn;
fiöllin um dali' og kinn
fríd leiki á hliódfærinn
fuglanna siót.

Af því sem best þú átt
ekkert hér spara mátt,
Ödling í vil;
svo lifi' hann þar lánga tíd
luckunnar kiör vid blíd,
lagi þinn barna lýd
dýr dáda til.

Marbacka' á höfgum hól
hýrleit þér Freya gól
mansaung í mót
géfi þad giæfan há
gladur þú megir fá
sífeldt ad vera hiá
ættfrægri snót.

Far þú vel fóstur son
fróns ísa traust og von
of ránar hyl!
skridi skip ægir á
skiótast sem verda má
fliótt svo þú fáir ná
fiallkonu til.

Allra er ósk þessi;
Alfadir hár blessi
þad áhrýnsmál!
eining og gledin gód
giör svipti oss hugarmód
ættjardar drecki þiód,
og vinar skál.

Hér skal vid hornalâ
hamíngiu fela þá
sem fara heim
landsmanna lidi af
leid fái greida' um haf
ört skulum utan vaf
skál skeinkia þeim.